{Þess íslendska evangeliska
{Smábóka Félags rit No. 53.}

# Frásaga
um
umvendun Dr. Thómasar Batemanns, og hans sáluhjálpligan afgáng; til eptirþánka øllum ad vísu, en einkum þeim, sem reida sig, í trúarinnar efnum, á útvortis atgjørfi sitt, í tilliti lærdóms og annara mannkosta.

Doctor Thómas Batemann var nafnfrægur og hálærdur læknir í Lundúnum, øndverdliga á þessari øld; hann var í mestu metum fyrir dugnad sinn og útvortis kurteisi. Eingu ad sídur var hann snaudur af þeim sanna kristindóms anda, sem leidir mann til þeckíngar sinnar djúplægu náttúruspillíngar, og sem sýnir hvorsu allt mannsins eigid réttlæti gildi minna enn eckert í Guds augum; já hann tók til ad hallast ad þeirri hørmuligu villu:meiníngu sumra heidinna fornaldar spekínga, sem kallast materialismus, sem álítur sálu manns úr liku efni sem kroppinn, og þess-vegna manneskjuna ad eins eitt konstugliga samsett

smídisvirkl, sem gjoreydist oll í einu. Í þessari skyn-semdarlausu trú styrktist hann af umgeingni vissra lærdra manna, sem druknir vóru af þessari villu. En jafnvel þó hann ecki gæti ad ollu leiti fallist á lær-dóm þennann, hafdi hann samt þá verkun hjá hon-um, ad hann tók ad efast um sannleika kristiligra trúarbragda, svo hann vanrækti hreint allar þær há-leitari æfingar kristindómsins, svosem andaktuga yfir-vegun Evangelii, og audmjúka bæn til Guds. En eptir þad hann hafdi um nockur ár ráfad í þessari þoku, þóknadist þó Gudi um sídir ad opna augu hans hugskots á andliga vísu, þegar heilsufari hans tók ad hnigna árid 1815, og hann kéndi þvílíkrar líkamligr-ar augnveiki, ad hann ugdi, hann mundi blindur verda. Þó lidu svo heil 4 ár, ad hann undir þess-ari krom tók eingin sonn sinnaskipti. Í Júlió 1819, þá vanheilsa hans fór enn meir í voxt, ferdadist hann frá Lundúnum til brennusteinsbadsins í Middleton, til ad reyna, hvort þad ei gjæti sér til nockurs bata ordid. Á ferdinni vard hann svo sjúkur, ad hann med nauminduм komst ad einum sveitarbæ, hvar hann hlaut ad halda kyrru fyrir allan veturinn, og nú neyddist hann ad segja af sér embætti síni í Lundún. Ádur hafdi hann ædileingi þjádst af sinaveiki, sem bædi hann og adrir meintu, ad mundi vera forbodi daudans. Um veturinn skánadi honum þó toluverdt;

en med vorkomunni 1820 fíck hann nýtt áfall af sýki sinni, eptir litla reid, sem hann gjørdi. Nú vard hann hræddur fyrir framhaldandi áfalli sjúkdómsins — sem ætíd ørfadist vid minstu áreynslu — svo hann' þordi ecki ad gánga um gólf í húsi sínu. Einn Sunnudag, nefnl. þann 9da Aprílis (segir kona sú, er þessa søgu ritad hefir, og sem þjónadi honum í hans sjúkdómi), taladi hann í fyrsta sinn vid mig um trúarbrøgd. Hann hafdi þann dag lidid miklar þjáníngar og þóktist nú sannfærdur um, ad hann aldrei framar mundi úr reckjunni rísa. Hann hafdi alltíd fordast ad láta í ljósi fyrir mér meiningu sína í trúarbragda sökum, þar hann vissi þad mundi ángra mig; en, af hans lifnadar máta, gat eg þó gitskad á sinnislag hans. Pad var vani hans ad dispútéra um sakir, eptir skynsemdar reglum; en eg fann mig ófæra til þess, móti honum; eins og eg líka er á þeim þánka, ad sá máti, ad dispútéra um trúarmeiníngar, sé ecki til neins, nema til ad rótfesta þær enn framar; þar hvørjum partanna um sig sýnast optast sínar ástædur vera gildari, enn síns mótparts; og í tilliti þeirrar sonnu evangelisku trúar, vissi eg ad skynsemdar rok eru aldeilis ófullnóg; því „med hjartanu trúa menn til réttlætis," segir ritníngin (Róm. 10, 10). Og í flestum þeim tilfellum hvar trúarbragda efi ríkir, er þad framar viljinn og tilhneigíngarnar, sem

lagfæraſt þurfa, enn ſkynſemin; en í því fyrra til-
felli duga eingar diſpútatiur neitt. Að kvøldi þeſs
ſama dags, ſagði Dr. Batemann mér hreint út: að
líf ſitt mundi bráðum ſtyttaſt, þar ſin áðurſøgð veik-
indi píndu ſig óttaliga. En hann bætti því þó við:
að allar þeſsar ſínar þjáníngar væru réttvíſt ſtraff
Guðs, fyrir ſína lángſömu vantrú, og það, að hann
hefði ſvo lítils metið Guð og trúarbrøgðin. Og hann
ſagði þar hjá: að þeim mønnum ſem legðu ſig eptir
þeim víſindum, ſem hann, ſem læknir, hefði meſt æft
ſig í, væri ſvo yfrið hætt við, að leiðaſt til ſlíkra
efaſemda, þar ſlík víſindi drægju mann ſvo náttúrliga
til áðurnefnds materialismus. Þá ſvaraði eg: eg
held þó að ógæfa þeſsi riſi framar af því, að menn
vanrækja að ranſaka Bibliunnar guðdómliga ſannleika;
því yrðu menn fyrſt fullvel ſannfærðir um hann, þá
hlyti heilagrar Ritníngar vitnisburður að fá ſvo full-
komna makt yfir hjarta þeirra, að øll minnavæg vís-
indi, ſem eitthvað ſýnduſt þó móti henni hafa, mundu
einga makt fá yfir ſálu manns. Hann viðurkendi þá,
að eg ſegði þetta ſatt og kvaðſt hafa ætlað að fara að
taka fyrir ſig alvarliga ranſókn þeſsa efnis, rétt áður
enn hann fengið hefði augnveikina, ſem fyrirmunað
hefði ſér allan bókleſtur. Okkar ſamtal endti með því,
að hann leyfði mér að leſa hjá ſér Dr. Skotts til-
raun að forſvara þau mikilvæguſtu trúar atriði;

einkum þann kapitula sem honblar um guddómligan uppruna heil. Ritníngar. Hann hlýddi á lesturinn med sterkustu gaumgæfni, og þegar eg hætti, sagdi hann: „hér eru roksemdir, já fullkomnar roksemdir!“ Þar eptir bad hann mig ad lesa hjá sér upprisu-historíu vors Frelsara. Eg las hana svo hjá honum eptir ollum 4 Gudspjallamonnunum, og þó enn nú fleiri greinir úr Ritníngunni, sem honum fannst mikid til; einkum var þad tilfellid, þegar eg las Postulans ord (1 Cor. 2, 14): „náttúrligur madur skynjar eckí hvad Guds Anda er; þad er honum heimska, og hann getur þad ecki þeckt, því þad hlýtur andliga ad dæmast.“ J nockra daga þar eptir hlaut eg altíd ad lesa hjá honum úr Bibliunni og odrum bókum, sem hentugastar sýndust, til ad meddeila honum þá sannfæríngu, sem hann svo inniliga eptirþrádi. Eitt sinn einn morgun þar eptir, þá eg kom inní húsid til hans, sagdi hann til mín: Eg gét eingan veginn komid ordum ad því, hvílík umbreytíng nú skén er í sálu minni. Þad er líka sem ein ný verold opni sig fyrir mér. Allar þær mætur, sem eg ádur haft hefi á heimi þessum, eru nú, nær eg til hans þeinki, hjadnadar sem onnur vatnsbóla. Mér þykir nú svo lítid koma til alls þess jardneska, ad mig stórfurdar, hvorsu leingi eg hefi gétad nidursokt mér í umsorgun þess, og lifad fyrir heim þennann. Med morgum

tárum lét hann í ljóst ángur sitt og viðbjóð til síns fyrra athæfis, að hann lifað hefði svo syndugu liferni, og í óhlýðni við Guð. En þar hjá sýndi sig hjá honum, allt í frá upphafi, að hans traust til Jesú fullgilda friðþægíngar offurs, frelsaði hann frá ollum efa um sinna synda fyrirgéfníngu, sem svo opt plágar þá, sem fyrst taka að þeckja syndir sínar og Guðs heilagleika. Auðmýkt hans fyrir Guði út af syndum sínum, gjörði ímyndan hans um Guðs miskun í Christo — sem nú líka stæði sér til boða — að háltitari. Tilfinníng þessi var svo lifandi hjá honum, að út af hjarta hans flutu réttir straumar þacklætis og fagnaðar, og þetta í nockra samfellda daga. En skömmu þar eptir hlaut hann þó að reyna það gagnstæða. Þá eg eitt kvöld varð að yfirgéfa hann, til að þéna oðrum, mér náskildum, sjúklíng, var móðir Dr. Batemanns hjá honum, í minn stað. Hann sagði henni þá, að eg væri von að lesa hjá sér nockuð úr Biblíunni; og hann æskti að hjá sér lesið væri allt nýa Testamentið. Hún tók síðan til að gjora það, og var komin fram að 10da kap. hjá Matthæum, þá hann brast út með þessum orðum: „eg gét ecki trúað þeim kraptaverkum, sem sagt er vor Frelsari gjört hafi, og er því hræddur um eg verði ecki sáluhólpinn. Þessi freistíng hins vonda setti hann í skélfiliga ángist; og svo var sendt strax eptir mér, að eg skyldi

til hans koma. Hann badst þá fyrir, midt í sterkustu ángist, ad Gud vildi gjöra sig sáluhólpinn, og ecki ofurselja sig þessari óttaligu vantrú. Vèr reyndum þá til ad hugga hann med ýmsum ritníngargreinum; en óró hans sefadist helst, þegar vid lásum honum nockur atridi úr áduruefndu Skotts riti, um orsitu og reynslur hinna trúudu. Hann sá þá ad ástand sitt var ecki neitt óvenjuligt, eins og hann hugsadi; og rithöfundurinn sýndi ofaná, ad slík freistínga-tilfelli væri opt forbodi þess, ad trúin mundi á eptir taka hjá manni þess stærri framförum. Þó stód hann fastur á þeim þánka, ad daudi sinn væri mjög nálægur, og ad hann hefdi því einga von til, ad ná sannfæríngu hèrum, ádur hann dæi; og þessi sorgligi þánki fèck nú aldeilis makt yfir honum. Þegar vid módir hans vorum nú aldeilis rádalausar ordnar ad hugga hann, rádlagdi einn vinur ockar, ad láta sækja prest einn, sem heima átti þar í nágrenni, rómbæran fyrir sinn Guds ótta. Þessu rádi vard Batemann ofurfeginn, og eg skrifadi strax prestinum til. Hann var þó ecki heima, og menn væntu hans ecki fyrr enn ad nockrum vikum lidnum. Nockrum dögum sídar sagdi Batemann vid mig, ad þad hefdi ordid sèr til góds, ad þessi von hefdi brugdist sèr; því nú hefdi hann því betur sannfærst um krapt bænarinnar, þar hann fengid hefdi af henni svo stóran lèttir, undir

þessu sínu sálarstrídi, mót efa og vantrú. Hann kvadst nú enda heilum nóttum til bænarinnar, og væri kominn ad raun um, ad þessar efasemdir væru eckert annad enn ørvar síns sálar óvinar, og ad þær einganveginn uppsprytttu af sínu eigin hugargrusli. Hann kvadst berliga siá, ad þær ecki gætu stadist; iá, ad hann hefdi strax í upphafi séd þad, en samt ecki gétad hrundid þeim úr þaunkum sínum. Þessum freistinga hrídum — sem opt hefdu stadid yfir nockrar stundir í einu — var hann enn nú í tvær vikur undirlagdur; en smámsaman úr því, tóku þær ad þverra. Honum reyndist þad og, ad hann fann af bæninni æ meiri léttir, uns hann loksins sigradi; og þad svo merkiliga, ad þau atridi Jesú kraptaverka, sem ádur høfdu mest mædt á trú hans, giørdu nú sálu hans róliga. Í þessum svifum, heimsókti hann óvænt einn vinur hans, sem og svo var læknir; en þó frægari fyrir sinn Guds ótta, enn kunnáttu íþróttar sinnar. Þessum luckadist, þó med mædu, ad telja Batemann trú um, ad siúkdómur hans væri ei svo hættuligur sem hann meinti; og ad hann mætti óhætt taka sér nockra hræringu. Reynslan sannadi og ad vinur hans sagdi satt. Fékst hann þá til ad fara á fætur; og skommu þar eptir vard hann svo færr, ad hann gat nockrar stundir í senn verid í fríu lopti, og haft á sér tækiliga hræringu. Og þó fann hann

aldrei, sem ádur, vanmátt síga ad sér, eptir þad hann hafdi hrært sig. Á þennann hátt fælsadi Guds forsjón hann frá ímyndaninni um nálægan dauda, nær augnamid Guds var nád, med ad leida hann til sannrar umvendunar og trúar. Þar eptir tók hann ad tala sjaldnar um ástand og tilfinníngar sálar sinnar, enn ádur; því náttúra hans til ad vera dulur, var svo rík, ad eckert nema sterkustu gedshræríngar gátu hana sigrad. Samt mátti hægliga merkja, ad hans sálar ástand lá honum í mesta máta á hjarta: þad sást af girnd hans ad heyra Guds ord hjá sér lesid, og af kostgæfni hans ad vitja Guds húss, og þad med stærstu andakt, sem hann ádur í mörg ár vanrækt hafdi; og líka sást þad af hans gódgjördasemi, sem alltid útbreiddi sig vídar og vídar; samt af því, hvörsu allur hans þánkamáti og tilhneigíngar tekid höfdu alla adra stefnu, enn ádur; svo þad átti heima hjá honum, sem Páll segir (2 Cor. 5, 17): „þad gamla er umlidid, og allt er nýtt ordid.“ Þetta sumar tók því heilsufar hans og kraptur miklum bata; en vid útgáng þess, reyndi hann eittsinn med gaungulági heldur mikid á sig, og þá greip hann aptur sú gamla sýki. Svo leingi hann dvaldi á landinu, eyddi hann mest tímanum, med ad láta lesa sér gudligar bækur; í allt annad þókti honum nú lítid varid; og hann kvadst aldrei fundid hafa eins mikla gledi, af

sínum fyrri vísdóms æfingum, sem þá, hann nú, af þess háttar lestri, hefdi. Hér um bil allt til Jóla, var heilsufar hans vid þad sama; en þá olli hann sér aptur ad nýu, med ofmikilli áreynslu, áfalls af sinni fyrri sinaveiki, med sterkri koldu. Eftir þad minkadi mjog kraptur hans og matarlyst, en sála hans þar á móti þroskadist æ betur undir eylífdina. Hans trú og þolinmædi efldist; von hans vard fastari, og hans bródurligi kjærleiki fór vaxandi. Hann var, eins og eg ádur sagdi, af náttúrn mjog dulur madur; en þann sídarsta mánud sem hann lifdi, taladi hann opt, med hita, um þann ósegjanliga fognud, er hann sídar ætti í vændum. Hann játadi, ad oll sú gledi, sem hann ádur haft hefdi í heiminum, kæmist í eingan samjofnud vid þann Guds frid, sem hann nyti nú í sálu sinni, hvors fridar náttúru einginn sá fær réttskilid, sem hann ei sjálfur reyndan hefir. Þessi vitnisburdur var yfrid merkiligur af þeim manni, sem frá úngdómi hafdi ecki einasta selt alla sína ástundun til bókmenta og vísinda, heldur og hafdi medtekid sína fullu umbun af heiminum þarfyrir; þar hann fyrir sínar luckuligu lækníngar, var almennt lofadur og heidradur og ríkugligum launum sæmdur. Þetta skilja þeir ecki, sem einga gledi hafa adra reynt, enn þá sem heimurinn kann í té ad láta (og hættir því opt vid ad draga gis ad sliku); en Dr. Batemann

sem reynt hafdi hvorutveggi gledinnar tegundir í sálu sinni, kvadst opt ecki géta ordum adkomid ad útmála: hvad gledi sú, sem öll heimsins æra og lucka veitti, væri lítilvæg hjá þeim fögnudi og fridi, sem af lifandi trú á Jesúm sprytti; fyrir hvorn hann kvadst nú ei skipta vilja þúsund veroldum, þó kost á ætti; þar öll heimsins gledi væri minna enn fisvirdi hjá hinu ad reikna. O ad menn vildu út í þad hugsa, hvad vidurkenníng þessi var eptirtektaverd af þeim manni, sem ádur notid hafdi æskiligustu lucku og gledi í heimi þessum! Þegar hann þeinkti til sinna fyrri athafna, var eckert sem gladdi hann, nema von sú, ad þær hefdu kunnad ad verda einhvorjum ad gódu; því hans mannelska var nú vaxin á hæstu tröppu. Opt taladi hann um þad, hvörsu sá blessadi dagur og nótt, sem hann hefdi fyrst umvendst á, væri sér minnisfastur, og fyrir hann lofadi hann Gud og vegsamadi óendanliga; svo jafnvel þegar hann vaknadi á næturnar, gat hann aldrei annad enn minnst hans, med stærstu gledi og þacklæti. Um sínar lángvinnu líkama þjáníngar taladi hann altíd med gudligasta þeinkimáta, og áleit þær sem verkfæri í Guds hendi til sinnar umvendunar. Já, sitt sjónleysi matti hann fyrir stakliga Guds nád; þar þad byrgdi fyrir sér heimsins hégóma, svo hann gjæti því betur haldid hjarta sínu til þess andliga. Á sídustu dogum lífs

síns taladi hann opt um laungun sína: „ad fara héd=an, og vera med Christó. En vilji Gud láta mig leingur lifa, sagdi hann, þá er eg fullviss ad þad þén=ar mér til besta, til ad gjora mig því hæfiligri til arfskiptis þeirra heilögu í ljósinu." Þjáníngar sínar bar hann med stakri þolinmædi, og þackadi Gudi sí=feldt fyrir, ad hann léti sig ecki taka meira út, og sagdi þarhjá: „hvílík blessan er þad ad mér audnast ad gánga út af heiminum svo hægt og svo róliga!" Hann vildi ecki ad menn kölludu þad þjáníngar, sem hann lidi; því þad mætti ecki heita nema óhægdir. Eitt sinn, þegar sú sem þjónadi hönum sagdi: „æ þad er mikill hósti sem kvelur ydur!" þá svaradi hann: „hafdú þolinmædi, kona: brádt kem eg í annann betri heim, og hvorsu farsæl umskipti verda þad!" Gledin í hans sálu gnæfdi yfir allar hans ytri þjáníngar. Einusinni lét eg hann á mér skilja: ad mér vyrdtist hann haft hefdi þessar gledi tilfinníngar í sífellu, ædi leingi. „Já," svaradi hann, „í nockra mánudi nær=feldt stödugliga."

Inn til hans sídarsta andartaks héldt sála hans sinni náttúrligu drift og krapti, já þetta jókst framar hjá hönum, enn rírnadi, hvad mikid sem hann leid, eptir, þad þánkamáti hans var helgadur ordinn. Eink=um var lífid og ljósid í hans anda frábært, þá sídustu viku sem hann lifdi. Já, þad sýndist sem sálar

styrkur hans særi vaxandi í sömu mæliugu, sem hans líkama styrkur þverradi; og hann vidurkenndi sjálfur, ad það væri svo. Allan daginn og nockurn part nætur þeirrar, á hvörri hann deydi, taladi haun, med lifandi tilfinníngu, um þá himnesku gledi, er hann í vændum ætti, og sagdi: „ó hvörsu sæl verdur mér mín dauda stund!" Leingi var hann ad tala um afmálun þeirrar nýu Jerúsalem, í Jóhannesar opinberunar bók; og hlýddi med stærstu gledi á, nær lesid var hjá honum í bók Baxteri, sem kallast: „Hvíld þeirra heilögu." Eitt sinn um nóttina, sagdi hann vid módur sína: „grátid ecki fyrir mínar sakir! þér megid heldur gledja ydur yfir ástandi mínu, enn gráta! vitid, ad þó þessa míns jardneska líkama hreisi nidurhrynji, á eg von á dýrdarinnar tjáldbúd, annars heims." Einni stundu ádur enn hann skildi vid — þegar hann hafdi látid trú sína og von í ljósi, med stærstu sálar gledi — sagdi eg: „ad það væri mjög eptirtektaverdt hvörsu allra sannumvendtra trú og tilfinníngar, hvar sem heldst í heiminum, og á hvörjum tíma, sem um væri getid, væru sér innbyrdis svo líkar og samkynja, sem eg áliti óræka roksemi þess, ad þær verkadar væru af einum og sama anda, og sem sannadi bibliunnar guddómliga uppruna, þar hennar fyrirheit uppfylltust svo dásamliga, og sýndu sig í lifandi dæmum." Hann sagdi þá: ad þessar

mínar álygtanir væru aldeilis réttar og vissar. Ecki sýndist þó, sem hann ætladi, ad daudi sinn mundi svo nálægur vera, sem hann var, fyrr enn svosem hálfum klukku tíma, ádur enn hann skildi vid. Hann tók á móti dálitlum svaladryck, þegar hann fann ad af sér dró, og bad ad hleypa frísku lópti inní herbergid. Þá hann var adspurdur: hvört honum findist vid þad léttir nockur? svaradi hann: „mikid lítill! eg gét varla, sagdi hann, gjort grein á, hvört þad er ómegi edur svefn, sem ad mér sígur; en því fylgir þó mikid þægilig tilfinníng." Strax þar á eptir hnignadi honum hastarliga. „Þad er víst um þad, sagdi hann, eg ætla nú ad deya, því kraptar minir þrotna svo ódum." Þá eg nú bendti honum til: hvílíka gledi hann í vændum ætti, svaradi hann: „já vissuliga á eg hana, og eg hlacka til ad deya, ef þad er Guds vilji." Hann lét svo aptur augu sín, en sagdi optar enn einusinni: „ó hvílíka dyrd sé eg þar nú áleingdar! Englarnir bída eptir mér." Eptir stutta þögn, sagdi hann sídan: „minn Jesú medtaktú minn anda;" og til þeirra sem hjá voru: „verid þid nú öll sæl." Þessi voru hans sídurstu ord, sem hann mælti; og sídan sofnadi hann mikid rólig-ur, innan 10 minútna, og þetta skédi hinn 10da Apríl 1821; svo þad var réttur árshríngur lidinn frá því Jesú Evangelíum féck fyrst inngaungu í hans

sálu. O hvorsu ólíkur var nú hans vidskilnadur, hjá því hann ordid hefdi, þegar eg vakti hjá sóttarsæng hans í Lundúnum, og áleit hvort hans augnablik það sídarsta.

Þá nefndi hann daudann, med stóru tilfinníngarleysi: sinn sídarsta svefn; og hvorsu stóra orsök hefi eg og adrir ad þakka Gudi fyrir það hann verkadi þessa umbreytíngu hjá honum ádur.

Hann dó ad eins einni viku ádur enn hans háttvyrdti — honum þó óþeckti — lærifadir Dr. Scott, af hvors skrifum hann hafdi mikla blessun uppskorid, svo hann rádlagdi ødrum ad lesa þau sér til uppbyggíngar; og hann sagdi: ó, hvorsu hjartanliga hefi eg bedid þessum manni blessunar fyrir verk sitt." Sannliga munu þessir tveir menn hafa fagnandi mætt hvor ødrum í eylífdinni. Vid ad lesa umvendun og afgáng manns þessa, mættu allir mótmælis munnar tilbyrgjast; því hans umvendun reis:

a) ecki af eptirþánkaleysi né skorti á skynsemi og lærdómi, til ad geta dæmt rétt um það sanna og innbyrlada, því hjá honum var lærdómur og skynsemi á hárri troppu.

b) ecki af undanførnu mótlæti og leida á lífinu, um hans æfidaga; þvi hann hafdi notid þeirrar lucku og æru í lífinu, sem nockur af hans standi gat framast óskad sér.

c) ecki af rænuleysi edur órádi í sjúkdóminum, þvi hann héldt sínum skynsemdar kroptum óbugudum, allt til hins sídarsta. Af hvørju flaut þá hans sinnis umbreyting? af eingu ødru enn evangelii nádarkrapti, sem umskapadi hans þánkamáta; af því hann gaf því réttiliga rúm hjá sér. O hyggid ad þessu allir, sem látid heims vitsku, heims dygd, heims lucku og lof blinda ydar augu!

---

Kaupmannahøfn 1834.
Prentad hjá S. L. Møller.